Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan

Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

Athugið að viðbót er komin við gíró-númerið 27810-6.

| | |
|---|---|
| Ársáskrift.......... | 3000 kr. |
| Hálfsársáskrift...... | 1800 kr. |
| Ársfjórðungsáskrift.. | 1000kr. |
| Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)....... | 5000 kr |

8. tölublað. Þriðjudagur 8. mars. 6. árgangur Verð kr. 60.

# Leysum húsnæðisvandamál verkafólks!

Daglega getum við lesið í borgarablöðunum auglýsingar, þar sem húsnæði er boðið til leigu fyrir vissar manntegundir samkvæmt smekk húseigendans. Tilboðs er óskað og fyrirframgreiðslu krafist fyrir yfirgengilega langan tíma, svo verðbólgan lækki ekki gróða húseigenda. Auk þess krefjast margir þessara húsleiguokrara að leigjendur borgi svo og svo mikið en kvittunin, sem þeir láta af hendi fyrir upphæðinni er gefin út fyrir margfalt minni upphæð. Þettabragðleika braskararnir til þess að þurfa ekki að greiða skatta af tekjum sínum og komast upp með það því leigjandinn er hlutlaus, þ.e.a.s. hann fær engan skattafrádrátt hversu sem leigan er há og auk þess á hann á hættu að vera rekinn út á götuna. Fjöldi fólks hefur harðlega fengið að finna fyrir hve réttur leigjandans er lítill gagnvart eigandanum.

## Húsaleigusamningar

Starfandi eru samtök, Húseigendafélag Reykjavíkur, sem setja öll ákvæði og reglur um húsaleigusamninga og eru samningarnir því mjög á einn veg. Leigutaki á að annast og kosta viðhald og viðgerðir á vatnshönum, rúðum, rörum, rafmagnsslökkvurum ljósa og eldavéla. Honum er skylt að leyfa leigusala að sýna húsið ákveðinn tíma á dag, þeim sem kunna að vilja taka það á leigu eða kaupa. Leigutaka er óheimilt að leigja út frá sér nema með samþykki leigusala. Honum er bannað að leigja út frá sér herbergi, bannað að hafa nokkurt húsdýr nema með samþykki leigusala. Sé leigan ekki greidd á réttum gjalddaga eða brjóti leigutaki samninginn á einhvern hátt, skal honum skylt að rýma húsnæðið tafarlaust er leigusali krefst þess. Ella verður hann borinn tafar og fyrirvaralaust út með aðstoð fógeta, en á eiginn kostnað. Er þá jafnframt fallin í gjalddaga öll leigan fyrir leigutímabilið, og skal leigutaki taka hana í sekt fyrir sammingsrofið Noti leigutaki húsnæðið víðtækar eða verr en leigusali hafði ástæðu til að vænta við samningsgerðina og ef hann hefur í frammi ósæmilega og óþolandi framkomu við leigusala (að mati leigusala,- innskot Stéttabaráttunnar) er leigusala heimilt að víkja leigutaka tafarlaust úr hinu leigða húsnæði eða láta bera hann út fari hann ekki sjálfviljugur, með aðstoð fógeta en á kostnað leigutaka, og er þá fallin í gjalddaga leigan fyrir allt tímabilið. Flytji leigutaki án tilverknaðar leigusala úr hinu leigða húsnæði, skal ógoldin leiga miðað við leigutíma allan, þegar fallin í gjalddaga. Til tryggingar leiguskuld eða sekt, getur leigusali látið kyrrsetja eignir leigutaka, án þess að setja tryggingu. Þetta eru úrdrættir úr húsaleigusamning þeim sem Húseigendafélagið gefur út en þann

framhald á bls 3.

# Barátta kvenna

Um allan heiminn hafa konur myndað með sér baráttusamtök til að berjast gegn hinni tvöföldu kúgun, sem kapítalisminn leggur á herðar þeirra. En þótt þessi baráttusamtök séu margvísleg, er þó merkjanleg tvenns konar grundvallarafstaða sem gegnsýrir starf og stefnu þessara samtaka. Þessu getur heldur ekki verið öður vísi háttað, því hugsanir manna og markmið geta ekki verið til án tengsla við þjóðfélagslegan raunveruleika Þjóðfélagið er stéttskipt og til þess ber að leita orsakanna fyrir mismunandi stefnu í kvennabaráttunni.



"Konan heldur uppi helmingi himinsins"er kínverskt orðtak í dag. Vopnaðar fræðikenningu marxismans-lenínismans og byssum standa þær karlmanninum jafnfætis í baráttunni.

## Tvöföld kúgun og tvenns konar stefna.

Konan býr ekki aðeins við ok launaþrældómsins í kapitalísku þjóðfélagi. Hún er líka kúguð heima fyrir. Og á sama hátt eru konur ekki sérstök stétt, heldur skiptast konur upp í stéttir eins og karlmenn. Hin tvöfalda kúgun hefur margvíslegar félagslegar afleiðingar fyrir konuma Hún er ekki aðeins í andstöðu við launaþrældóm kapitalismans heldur einnig þann órétt sem kapitalisminn hefur skapað í samskiptum karls og konu. Hún á ekki aðeins við að stríða sjáanlegan óvin, þar sem auðvaldið og ríkisvald þess er, heldur einnig annan óvin sem birtist í gervi vanans og íhaldsseminnar. Verkamaðurinn sem sjálfur á í andstöðu og baráttu við auðvaldið, eins og verkakonan, hneigist til að líta á hlutskipti konunnar sem óbreytanlegt, sem eðlilegt og sjálfsagt

framhald á bls 3.

# Minning J Stalins lifir!

Þann 6. mars voru 23 ár liðin frá andláti Jóseps Djugasvilij Stalíns. Við hlið Leníns var Stalín óskoraður leiðtogi og foringi Októberbyltingarinnar. Leiðtogi sem aldrei brást grundvelli marxismans-lenínismans, en þróaði hann áfram og jók á landvinninga hans. Eftir dauða Leníns varð Stalín leiðtogi Sovétríkjanna og heimshreyfingar kommúnista. Í óvæginni baráttu gegn borgaralegri stefnu Trotskys Bucharins og fleiri andstæðinga öreigaríkisins, leiddi hann sovéska verkalýðinn fram eftir götu sósíalískrar uppbyggingar og skapaði fræðikenningunni fyrir alræði öreiganna fastari grundvöll. Meðan hin óskaplega þolraun síðari heimstyrjaldarinnar stóð yfir, vék Stalín aldrei frá skyldum sínum og leiddi þjóð sína styrkri hönd til sigurs yfir böðlaherjum nasismans. Barátta Stalíns fyrir málstað öreigabyltingarinnar og sósíalismans, aflaði honum takmarkalauss trausts og virð vinnandi fólks um víða ver-

framhald á bls 3.

# Lífeyrissjóðina undir stjórn launafólks!

Það er óneitanlega mikilvægt fyrir verkafólk að vera í sterkum lífeyrissjóði. Fé sem fólk leggur til hliðar og geymir til elliáranna er orðið að engu, löngu áður en menn setjast í helgan stein. Sem dæmi um hraða verðbólgunnar er lesendabréf sem birtist um daginn í einu dagblaðanna. Þar segir bréfritari m.a. að hann hafi greitt sama verð fyrir handtösku og hann greiddi fyrir íbúð sína 25 árum áður. Það er því til lítils að safna til elliáranna. Eina tryggingin fyrir áhyggjulausum ellidögum, án þess að vera upp á aðra kominn er sterk verkalýðshreyfing og sterkir lífeyrissjóðir. Kommúnistar munu ávallt berjast fyrir því, að allir launþegar séu í lífeyrissjóði og að greiðslur úr þeim nægi til framfærslu. Greiðslurnar verða einnig að ná til barna innan 18 ára aldurs og maka (hvort sem um hjónaband eða sambúð er að ræða) ef sjóðsfélagi fellur frá. Í dag er það bundið með lögum að allir skuli vera í lífeyrissjóði. Baráttan er því að knýja á um að lögunum sé framfylgt og að reyna að auka réttindi félaga. Í raun eru um 10% af dagvinnutekjum sérhvers launþega teknar í lífeyrissjóðina, Slík upphæð á að geta tryggt verðtrygga sjóði. Mikill hluti láglaunafólks hefur aldrei ráð á því að koma sér upp þaki yfir höfuðið. Það fær því aldrei að njóta þess að taka lífeyrissjóðslán með hæstu vöxtum til að "fjárfesta". Það er alla ævi að borga í sjóðina og á eins og allir aðrir fullan rétt að fá að njóta síns erfiðis, þó í ellinni sé.

## Áunnin réttindi haldist.

Að mínu áliti má verkafólk aldrei afsala sér áunnum réttindum. Ég er því ósammála þeim hluta greinar bsk. í 6. tbl. 77, þegar hann krefst þess að sjóðirnir verði færðir aftur í það form "þegar sjóðsfélagar gátu tekið út alla þá peninga er þeir höfðu borgað í þá" (bein tilvitnun í grein bsk).
Miklu vænlegri krafa væri, að sjóðsfélagi gæti ávallt með stutt) um fyrirvara fengið jafnmikið lánað og hann á inni í sjóðnum en með vægum vöxtum. Alltof mörg dæmi eru um menn sem tóku út sitt fé vegna þess að þeir þurftu á því að halda, en um leið afsöluðu þeir sér öllum réttindum. Þegar þeir svo komust á þann aldur að þeir þurftu bóta með voru þeir réttindalausir. Á öðrum stað í grein sinni gagnrýnir bsk. réttilega að sjóðirnir skuli ekki uppfræða sjóðsfélaga reglulega um innistæður sínar. Það er sjálfsögð réttlætiskrafa að sjóðirnir sendi launþegum reglulega tilkynningar um innistæður þeirra og hvernig greiðslum hefur verið háttað t.d. undanfarin 2 ár.

## Sjóðirnir eru eign launafólks.

Atvinnurekendur og ríkisvald út úr stjórnum sjóðanna, hefur verið krafa verkalýðshreyfingarinnar um árabil. Kommúnistar gefa þessari kröfu meira inntak með því að taka upp um leið, að stjórnir sjóðanna verði kosnar lýðræðislega af sjóðsfélögum. Það er ekki í þágu hagsmuna launafólks, að stórauka völd forystuklíkunnar í ASÍ og BSRB, svo þeir geti selt sig hærra verði, en þann skilning leggja forkólfarnir í þessa baráttu. Baráttan stendur um að verkafólk fái yfirráðarétt yfir eigin fé. Lífeyrissjóðirnir eru missterkir í heildina er um gífurlegar upphæðir að ræða í sjóðunum. Það fjármagn hefur verið ávaxtað með því að lána hluta þess til sjóðsfélaga, en ómældar upphæðir fara í "uppbyggingu íslensks atvinnulífs" (t.d. verslanahöllina í nýja miðbænum). Ríkið reynir stöðugt að draga úr lánum til sjóðsfélaga með því að neyða sjóðina til að kaupa ríkisskuldabréf. Heitir það á máli borgaralegra hagfræðinga að draga úr eftirspurn en er í raun aðeins fjármögnun á Kröfluævintýrinu og Borgarfjarðarbrúnni.

## Aukin samstaða

Ef hinn minnsti áhugi væri hjá forystunni og ef ekki væru stöðug afskipti atvinnurekenda og ríkisvalds af málefnum sjóðanna, gætu sterkari sjóðirnir styrkt þá veikari, ef þeir yrðu fyrir skakkaföllum. Sem dæmi um veikan sjóð sem hefur orðið "fyrir skakkaföllum" er lífeyrissjóður ASB-kvenna. Þar hefur rúmum helmingi félaga verið sagt upp vinnu, svo

framhald á bls. 3.

# LEIÐARI

## Gegn endurskoðunarstefnunni

Undanfarin ár hefur verkalýðsstéttin verið sundruð og óskiplögð í baráttunni gegn kapítalismanum. Þetta á jafnt við um kjarabaráttuna, sem andheimsvaldasinnuðu baráttuna og baráttu kvenna og æskulýðs. Orsökin fyrir sundrunginni er forræði endurskoðunarstefnunnar fyrir verkalýðsfélögunum Alþýðubandalagið hefur sterk ítök í verkalýðshreyfingunni og andheimsvaldabaráttunni. Innan verkalýðshreyfingarinnar hefur AB-forystan fært með sér borgaralega fordóma, trú á kapítalismann og vantrú á samtakamætti fjöldans. Í verkföllum og vinnudeilun halda forvígismenn AB aftur af baráttunni, slæva samstöðuna og brjóta niður lýðræði innan verkalýðshreyfingarinnar. Alþýðubandalagið er höfuðstoð auðvaldsþjóðfélagsins og erindreki auðvaldsins innan herbúða verkalýðsstéttarinnar. Barátta gegn uppkeyptri forysltu ASÍ, er um leið barátta gegn politík og stefnumiðum endurskoðunarsinna. Það er AB sem færir með sér sundrungu, uppgjafar sjónarmið og undirgefni undir arðránskerfi kapítalismans , inn í raðir verkalýðsins. Það hefur axlað það verkefni, sem Alþýðuflokkurinn gegndi fyrr á árum og gengur erinda borgarastéttarinnar í einu og öllu. Hið sama gildir um andheimsvaldasinnuðu baráttuna. Þar verja AB-foringjarnir heimsvaldastefnu Sovétríkjanna og reyna að koma í veg fyrir baráttu með því að telja fólki trú um að Ísland fari úr NATO og herinn víki fyrir ákvörðun meirihluta á Alþingi. Þeir þjóna heimsvaldastefnu Sovétríkjanna leynt og ljóst, en jafnframt hindra þeir baráttu fjöldans gegn hinu risaveldinu- Bandaríkjunum, með því að einblína á kosningasigur sinn en hunsa frumkvæði og baráttu fjöldans. Innan herstöðvaandstæðinga getur ekki verið um samstarf að ræða við AB-klíuna., heldur baráttu gegn afturhaldsömum sjónarmiðum hennar og klíkustarfsemi. Baráttnan gegn endurskoðunarstefnunni er verkefni, sem verður að gegnsýra alla baráttu kommúnista, því endurskoðunarstefnan er hættulegasti óvinur verkalýðsstéttarinnar og án sigurs yfir henni, verður borgarastéttin aldrei sigruð. Endurskoðunarstefnan breiðir út trú á eilífleika kapítalismans, prédikar friðsamlega þróun sósíalismans undir handarjaðri einokunarauðnavaldsins og hafnar baráttu fjöldans fyrir frelsun. Endurskoðunarstefnan beinir sjónum verkalýðsins frá sósíalismanum og tryggir arðránshagsmuni auðvaldsins, auk þess sem hún er framvörður sovésku sósíalheimsvaldastefnunnar. Uppbygging breiðrar baráttufylkingar verkalýðsins er aðkallandi, en hún verður ekki byggð upp, nema óvægin og sífelld barátta sé háð gegn forræði og ítök um endurskoðunarstefnunnar, hvarvetna þar sem barátta fer fram. Því samhliða því sem stéttabaráttulínunni vex fiskur um hrygg, hlýtur stéttasamvinnustefna AB-forystunnar að missa fótfestuna og glata tiltrú og fylgi fjöldans.

6. mars 1977

# Nýtt blað hefur göngu sína

Samband íslenskra námsmanna erlendis, SÍNE, hefur nú hafið útgáfu félagsblaðs, SÍNEblaðsins Fyrsta tbl. kom út í jan., 2. tbl. í febr., og er áætlað að út komi 8 tbl. á árinu. Blað þetta sem er offsettprentað kemur í stað fjölritaðra fréttabréfa, sem út hafa komið hingað til.

### Ný stjórn í SÍNE

Fyrstu tvö blöðin eru myndarleg að vöxtum, hið fyrra 12 síður, hið síðara 16 síður. Af efni fyrra blaðsins má nefna fréttir af úrslitum haustfundakosninga 1976. Haustfundir SÍNE-deildanna eru aðalfundir sambandsins, þar sem kosin er ný stjórn og greidd atkvæði um stefnu sambandsins. Sl. haust var uppi mikil barátta, þar sem trotskistar- einkum í Árósum í Danmörku - réðust gegn þeirri baráttustefnu sem hingað til hefur verið fylgt í lánamálum námsmanna. Þessi árás þeirra mistókst. Aðalframbjóðandi þeirra féll í stjórnarkosningunum og núver. stjórn fylgir svipaðri stefnu og fyrri stjórn. Stjórn SÍNE skipa nú: Guðmundur Sæmundsson (frá Ósló og Bergen) formaður, Heimir Sigurðsson (Árósum) gjaldkeri og Hreinn Hjartarson (Ósló) ritari og ritstj. SÍNE-blaðs.

Þá eru í blaðinu ýmsar fréttir af hagsmunamálum námsmanna almennt og námsmanna erlendis sérstaklega. Einnig eru fréttir af því starfi sem SÍNE-fólk stóð fyrir hér heima um jólin af miklum myndarbrag. Rætt er um störf Kjarabaráttunefndar námsmanna, sem illu heilli virðist nú að vera að sofna svefninum langa. A.m.k. hefur lítið heyrst úr þeim herbúðum um langa hríð. Loks eru fréttir í þessu tbl. og 2. tbl. um fyrirhugaða ráðstefnu námsmanna erlendis í Kaupmannahöfn í apríl, þar sem hagsmunamálin verða tekin upp til gagngerrar og stefnumarkandi umræðu.

### Lygar um námsfólk hraktar

Af efni síðara tbl. má nefna gagnmerka grein frá námsmönnum í Gautaborg um áróður ríkisvaldsins og fjölmiðla borgarastéttarinnar gegn námsfólki. Þar er sýnt fram á að orsök árásanna á námsmenn að undanförnu sé efnahagskreppa íslenska auðvaldsins. Þessi grein er mjög vönduð og þyrfti að komast í hendur sem flestra námsmanna hér heima.

Þá er í blaðinu greinargerð frá námsmönnum í Uppsölum um skipulag SÍNE, svo og stefnuágrip stjórnar SÍNE og framkvæmdanefndar Baráttuhreyfingar námsmanna. Í blaðinu er einnig birt stefnuágrip framkv. nefndar BHN um lánamálin, auk frétta af hreyfingunni. Margt fleira er í þessu tbl., sem of langt væri að rekja hér.

### Merkt framtak

Stéttabaráttan óskar SÍNE til hamingju með þetta nýja glæsilega blað. Megi það verða til enn frekari eflingar þeirrar baráttustefnu sem SÍNE hefur fylgt og til stuðnings þeim stóra meirihluta innan SÍNE sem vill heyja baráttu sína á grundvelli hagsmuna verkalýðs og vinnandi fólks. Íslenskir kommúnistar við nám erlendis hljóta að heilsa þessu blaði á þann hátt sem því ber, - með því að vera ötulir að skrifa í það og stuðla að áframhaldandi uppbyggjandi umræðum innan SÍNE. Megi ráða af þessum tveim fyrstu blöðum, virðist hér hafa litið dagsins ljós blað sem hingað til hefur vantað, blað sem flytur ítarlegar fréttir af öllu því sem gerist í og varðandi kjarabaráttu námsfólks. Þeir sem vilja fylgjast vel með því öllu eru hvattir til að útvega sér eintök af SÍNE-blaðinu.

3. 3. '77. - gv.



# ÚR BARÁTTUNNI

### IÐNAÐARBANKINN

Vegna þess hve stéttarfélögin eru máttlaus og forystan ófús að taka málstað félaganna viðgengst allskonar yfirgangur og ósvífni af háldu atvinnurekenda. Afnám kaffitímanna við Reykjavíkurhöfn er feskd dæmi um það hvernig foringjar Dagsbrúnar láta í einu og öllu að vilja atvinnurekenda. Annað dæmi er frá Kópavogi, úr hinni nýju verksmiðju Álafoss þar. Þar hefur verkafólki verið tilkynnt að það fái laun sín ekki greidd í peningum eða með ávísun á vinnustað, heldu verði opnuðu reikningur fyrir hvern og einn í iðnaðarbankanum. Iðnaðarbankinn hefur útibú í Árbæ og Hafnarfirði, við Háaleiti og Dalbraut auk aðalbankans við Lækjargötu. Áreiðanlega oftast atvinnurekendurnir til að Iðnaðarbankinn njóti þannig aukinna viðskipta og fái aukið fé til ráðstöfunar. Kanske er þetta einn þátturinn í "eflingu iðnaðar" á Íslandi. Eina svarið, sem verkafólk hefur í svona tilfellum, er samstaða allra vinnufélaganna gegn óréttinum. Stéttabaráttan hvetur verkafólk til að hafa samband við okkur og verða þannig til að fletta ofan af svívirðunni, sem viðgengst á mörgum vinnustöðum.

# Verknám vanmetið

Eitt er það mál sem oft gleymist þegar rætt er um lánamál námsmanna. Það er hversu stór hópur það er sem engin lán fær. Yfirleitt er þar um verknámsskóla að ræða. Ekki er lánað út á 2 neðstu bekki Fiskvinnsluskólans, fyrra ár Íþróttakennaraskóla Íslands, bændaskóla og fleiri skóla. Þar að auki eru efri bekkir allra þessara skóla, Vélskólinn, Stýrimannaskólinn og Tækniskóli Íslands háðir sérstakri fjárveitingu. Aldrei er lánað út á nám sem tekur aðeins eitt ár, svo sem nám í útgerðartækni við Tækniskólann.

Svo vantar líka mikið á það að auðvelt sé að hefja nám að nýju eftir þáttöku í atvinnulífinu. Skattar leggjast með óhóflegum þunga á þá námsmenn svo að oft og tíðum neyðast þeir til að vinna með náminu og hægja þannig námshraðann. Sumir skólanna eru þó þannig úr garði gerðir að annað hvort er að hætta alveg eða að halda fullum hraða. Allt þetta bitnar mest á þeim námsmönnum sem eiga efnalitla foreldra. Þeir, sem eiga ríka foreldra geta leitað til þeirra um aðstoð.

En líkast til er það einmitt það sem vakir fyrir ríkisvaldinu að fækka þeim menntamönnum sem koma úr láglaunastéttunum og gera menntun að forréttindum hinna ríku. Það má ekki verða. Námsmenn allir, verkamenn og allt annað alþýðufólk til sjávar og sveita: hrindum þessari árás ríkisvaldsins með samstilltu átaki. Eyðum allri óþarfa tortryggni á milli námsmanna og verkamanna. Hún er skaðleg og veikir krafta okkar. Sameinaðir stöndum vér, sundraðir föllum vér.

Námsmaður.

# Prófafyrirkomulagið í grunnskólanum

Samkvæmt hinni nýju einkunnagjöf grunnskólans, er til þess ætlast, að ákveðinn fjöldi nemenda fái lægstu einkunn, ákveðinn hluti næst lægstu einkunn og svo framvegis, eftir vissum reglum, sem prófanefnd hefur reiknað út. Þannig er það óhjákvæmilegt, að 7% nemenda í 9. bekk grunnskólans fá E (sem jafngildir 0-2) í hverju fagi. En það merkir að enginn framhaldsskóli er skyldugur til að taka við nemendunum. Grunnskólalögin gera ráð fyrir að enginn falli á prófi, allir eigi að útskrifast. En fái menn einkunnina E í einu fagi eða D í tveim fögum getur maður ekki komist í framhaldsskóla. Þetta er auðvitað ekkert annað en fall. Nú heitir það bara fínna nafni. Framkvæmd prófanna var líka fyrir neðan allar hellur.

Ýmislegt í stærðfræði og íslensku, sem prófað var í, var ekki á námsskrá og vitleysa var í upplestrinum í enskuprófinu. Auk þess fá nemendur ekkert að vita um einkunnir sínar fyrr en eftir u.þ.b. 2 mánuði og kennarar fá m.a.s. ekki að halda prófblaði í kennslugrein sinni. Allt er þetta gert til að svipta kennara og nemendur áhrifum á framkvæmd prófa, einkunnagjöfosfr. Í staðinn kemur alger miðstýring ráðuneytisins og nemendur verða bara að tölum í tölvu, sem raðað er eftir vissri reglu, án tillits til hvort þeir leysa prófverkefnið vel eða ekki. Því ekki er farið eftir árangri einstaklingsins, heldur samanburði við árangur hinna. Þó maður leysi t.d. helming af prófinu, getur maður fengið D (fyrir neðan 5) ef allir aðrir hafa fengið

fengið hærra. Einstaklingurinn er þurrkaður út í þessu ómannlega kerfi og allir gerðir að meðlimum sömu sauðahjarðarinnar, sem ekkert má vita og engu fær að ráða.

/nemandi.

# Kosningar í Háskóla Íslands

Almennar kosningar meðal stúdenta við Háskóla Íslands til Stúdentaráðs fara fram þ. 10. mars nk. Í kjöri eru tveir listar, A-listi Vökustaura og B-listi vinstrimanna. Listi vinstrimanna er samfylkingarlisti, sem spánnar yfir svonefnda "vinstri"-menn, allt frá krötum til kommúnista. Merjast mál þessara kosninga eru lánamálin, þar sem "vinstri"-samfylkingin hefur nú látið undan hörðum þrýstingi frá almennum stúdentum og skipt um stefnu. Í fyrra stóð Stúdentaráð að því m.a., að námslán voru gerð vísitölubundin með lögum, og "vinstri"menn í ráðinu hafa varið þá stefnu í Háskólanum sem stórsigri og fylgja henni eftir með virkri þáttöku í undirbúningi kosninganna og í kosningunum aðir námsmenn hljóta að fagna þessari stefnubreytingu allt til þessa dags. En fyrir baráttu SÍNE frá upphafi gegn þessari uppgjafastefnu, og fyrir baráttu Báráttuhreyfingar námsmanna frá í haust og síðar ýmissa annarra framsækinna aðila hefur tekist að sýna fram á skipbrot þessarar stefnu. Allir baráttusinnsjálfum. Meiri hluti "vinstri" manna í Stúdentaráði er mjög naumur, og er því ekki vanþörf á að hvetja fólk til dugmikillar þáttöku.

3.3.'77 g.v.

HVERNIG KEMST ÞÚ I SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ISLANDS / ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357. Reykjavík, einnig í síma 27810
Ritstjórn Stéttabaráttunnar og Rauða Fánans: Pósthólf 1357, sími 27810 á opnunartíma Rauðu Stjörnunnar Lindargötu 15.
Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir, Þiljuvöllum 38.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson Hellisbraut 10. Hellissandi.
Ísafjörður: Kristinn Karlsson Fjarðarstræti 7.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Reykjarvíkurvegi 24.
Suðurnes: Jónas H Jónsson Holtsgötu 26. Njarðvík. s. 2641.

# Staða konunnar í sósíalismanum

Kapitalisminn er kerfi kúgunar og arðráns. Innan endimarka þess verður öll vinna brennd marki launaþrældómsins og frjálsræðið takmarkast ætíð af arðránshagsmunum borgarastéttarinnar. Vinna konunnar er engin undan tekning, hvort sem hún vinnur heima fyrir eða bætir útivinnu ofan á heimilisstörfin. Í sósíalismanum skapast forsendurnar fyrir frelsun konunnar, vegna þess, að vegið hefur verið að rótum arðránsins og einkaeign framleiðslutækjanna verið afnumin. Segja má, að barátta konunnar fyrir frelsun komist á nýtt og æðra stig í sósíalismanum.

Afturhaldssömum skoðunum vísað á bug

Í Kína og Albaníu, löndum sósíalismans, ríktu áður viðteknar skoðanir sem þrengdu að og heftu frelsi konunnar á ótal vegu. Í Kína, þar sem kenningar Konfúsíusar ríktu, var konan ambátt karlmannsins um allan aldur. Faðir hennar réð yfir henni fram til giftingar, en ef hann dó réð elsti bróðir hennar örlögum hennar. Í hjónabandinu var konan ambátt eiginmanns síns og ef hún lifði hann, réðu tengdaforeldrar hennar yfir henni eða elsti sonur hennar. Í Albaníu, þar sem múhammeðstrú átti sterkar rætur, mátti konan ekki sýna andlit sitt ókunnugum og var lokuð inni, fullkomlega háð yfirráðum föðurs eða eiginmanns. Þessum afturhaldsskoðunum hefur nú verið vísað á bug og konan hefur losað sig úr viðjum aldalangrar ambáttartilveru, sem lénsþjóðfélagið bjó henni. Baráttan fyrir frelsi konunnar í sósíalsimanum verður aðeins háð af henni sjálfri með tilstyrk og í bandalagi við ríkisvald verkalýðsstéttarinnar. Sósíalisminn skapar forsendurnar fyrir því, að afturhaldssjónarmiðunum verði hnekkt að fullu og konan öðlist frelsi.

Burt með eldhúsþrælkunina

Þegar sósíalískt þjóðskipulag kemst á með vopnaðri valdatöku verkalýðsins, hefur sjónarmiðum og viðteknum venjum ekki verið sópað burt úr huga mannanna. Valdatakan er aðeins fyrsta skrefið í byltingunni og ríkisvald verkalýðsins tryggir að afturhaldi, arðræningjum og kúgurum verður ekki leyft að halda aftur af frelsisþróuninni. Þannig hélst sú afturhaldssama skoðun, að staður konunnar væri í eldhúsinu, nokkuð lengi eftir að kommúnistar höfðu tekið völdin. Vissar lagalegar breytingar tryggðu konunni að sjálfssögðu fullt jafnrétti á við karlmenn, en siðvenjurnar og vaninn víkja ekki svo létt fyrir lagabókstafnum. Það var ekki fyrr en í hinni miklu menningarbyltingu í Kína, sem milljónafjöldi kvenna hratt af sér oki eldhúsþrælkunarinnar og lagði út í baráttuna fyrir frelsun mannkynsins undir kjörorðinu "allt sem karlmaður getur gert, getur konan líka gert." Konurnar reistu sjálfar verksmiðjur, kvennahreyfingin öðlaðist milljónir af nýjum, herskáum meðlimum og staða karlmannsins á heimilinu, sem staðið hafði af sér aldalanga þróun stéttaþjóðfélagsins varð að víkja fyrir frelsisbaráttu konunnar. Nú gegna karlmenn heimilisstörfum til jafns á við konur og hörð barátta er gegn hvers konar tilhneigingum til að viðhalda forréttindum karlanna. Hvarvetna í Kína, má sjá konur að starfi við verk sem áður tilheyrðu "hinu sterkara kyni". Eitt af mikilvægustu verkefnum sósíalísku byltingarinnar er að ráðast gegn afturhaldssömum sjónarmiðum og venjum varðandi stöðu konunnar, en þessi sjónarmið hefur kapitalisminn tekið í arf frá fyrri stéttarþjóðfélögum, styrkt og veitt ný form .

Sósíalisminn er forsenda fyrir frelsun konunnar

Jafnréttisbarátt í kapitalismanum er mikils virði, og það væri alrangt að ætla , að baráttan fyrir frelsun konunnar byrjaði fyrst eftir byltinguna. Nákvæmlega eins og baráttan gegn kúgun og órétti yfirleitt er aðalsmerki kommúnismans, hljóta kommúnistar að berjast fyrir frelsun konunnar þegar í kapitalismanum, fyrir jöfnum rétti efnahagslega, pólitískt og hugmyndafræðilega. Sósíalisminn er forsenda fyrir frelsun konunnar á sama hátt og hann er forsenda fyrir frelsi vinnandi alþýðu yfirleitt. Þess vegna er baráttan fyrir frelsun konunnar hluti af almennri byltingarbaráttu verkalýðsfjöldans, mikilvægur og ómissandi hluti. Án þátttöku kvenna í byltingarbaráttunni, verður hún aldrei sigursæl. Þetta gildir jafnt um kapitalismann sem sósíalsimann. Staða konunnar verður aldrei frjáls, nema til komi barátta verkalýðsstéttarinnar, barátta fyrir afnámi hvers konar kúgunar, arðráns og misréttis.



Kvennaherdeild úr Albanska Alþýðuvarnarliðinu. Í sósíalismanum berjast konur og karlar hlið við hlið að uppbyggingu og og þróun hins sósíalíska föðurlands í átt til kommúnismans.

# Barátta kvenna

frh. af forsíðu.

Þótt hann sé fús til sameiginlegrar baráttu gegn sameiginlegum óvini, á hann erfiðara með að skilja nauðsyn baráttunnar gegn kynferðislegri kúgun konunnar. Þar kemur líka til ákveðin forréttindastaða hans, sem gerir hann tregari til baráttunnar en ella. En af þessu skapast hinar tvær meginstefnur innan kvennahreyfingarinnar. Annars vegar sú sem tekur mið af tvöfaldri kúgun konunnar og tengir þessa baráttu saman í heildarbaráttu fyrir sósíalisma og kvenfrelsi, hins vegar er sú sem tekur mið af eilífleika kapitalismans eða miklar fyrir sér möguleikana á breytingum innan ramma hans. Þetta er borgaraleg afstaða og birtist venjulega í því að lögð er einhliða áhersla á kynferðislega kúgun konunnar, staða konunnar í þjóðfélaginu er slitin úr tengslum við raunveruleikann. Þessi stefna lítur á karlmanninn sem slíkan, sem óvin sinn og stefnir því raunverulega aftur á við, er. íhaldssöm Hún er sambærileg við borgaralega öfga í t.d. þjoðernismálinu þar sem kynþáttafordómar svartra gegn hvítum ná yfirhöndinni og alþjóðleg samstaða kúgaðra af öllum hörundslitum er látin víkja fyrir sundrungu og innbyrðis baráttu alþýðu af tvenns konar þjóðerni eða hörundslit. Hérlendis hefur nokkuð borið á þessari stefnu innan Rauðsokkahrefingarinnar og hún á sterk ítök í Alþýðubandalaginu. Eitt af meginverkefnum íslensku kvennahreyfingarinnar verður að vera barátta gegn slíkum skoðunum, sem eru sundrandi og afturhaldssamar í framkvæmd.

Borgaralegar öfgar "til vinstri".

En þessi stefna, sem runnin er undan yfirráðum borgarastéttarinnar, birtist ekki í einu gervi eða alltaf á sömu lund. Hún tekur sér meira að segja "byltingargerfi" eða klæðist róttæku yfirbragði. Algengt er að því sé haldið fram, að kynferðisleg kúgun konunnar skipti engu máli, hún verði leyst í sósíalismanum. Það sem leggja beri einhliða áherslu á, sé barátta verkakonunnar við hlið verkamannsins fyrir sósíalískri byltingu. Slík skoðun á ekkert sammerkt með kommúnismanum því hún hafnar raunverulegum þjóðfélagslegum skilyrðum konunnar. Vissulega verður frelsun konunnar ekki framkvæmd nema á tengslum við sósíalisku byltinguna, en á hitt ber líka að líta, að fjöldinn nálgast ekki rétta baráttustefnu vegna sannfærandi orða, eða réttra fræðilegra útskýringa. Hann lærir af eigin baráttureynslu og hún kennir honum að fylkja sér um rétta baráttustefnu. þanning vekur kynferðisleg kúgun konunnar marga til vitundar um nauðsyn baráttunnar og stefna sem hafnar jafnréttisbaráttu nær aldrei til þessarra kvenna. Skilningur á nauðsyn sósíalískrar byltingar, sem forsendu fyrir algerri frelsun konunnar, vex oft í tengslum við jafnréttisbaráttuna og fyrir starf kommúnista innan kvennahreyfingarinnar ar. Að hafna þáttöku annarra kvenna en verkakvenna í hreyfingunni, eða snúast gegn jafnréttisbaráttunni er röng stefna og skaðleg, sem þarf að berjast gegn Hún getur líka birst í öðrum gerfum, eins og baráttu gegn fjölskyldunni á núverandi skeiði þjóðfélagsins. Trotskyistar hampa slíkri stefnu mjög, en skilja ekki, að það er efling fjölskyldunnar sem mun leiða til upplausnar hennar að lokum nákvæmlega eins og það er nauðsynlegt að efla ríkisvald verkalýðsins í sósíalismann, til þess að geta afnumið það. Fjölskyldan sem slík er ekki undirrót kúgunarinnar á konum , heldur þjóðfélagskerfi kapítalismans.

Verkefni íslenskra baráttukvenna

Það er nauðsynlegt að skapa kvennahreyfingunni réttan farveg, en það er jafnnauðsynlegt , að veita henni sterkt skipulag og gera hana að breiðri baráttufylkingu. Rauðsokkahreyfingin er í dag sundruð og ósamstæð og hana skortir heildarskipulag. Orsökin fyrir þessu, er sú að stefnan er óljós, hún er í rauninni samband tveggja öfga. Í stað þess að líta á mikilvægi konunnar í þjóðfélaginu, skoðar hún konuna sem andstæðing karlmanna. Í stað þess að stefna að sósíalískri byltingu í bandalagi við kommúnista, heimtar hún breytingar innan ramma þjóðfélagsins og gerir bandalag við endurskoðunarsinna. Þessir veikleikar verða til þess, að skipulag Rauðsokkannna riðlast og þær ná sjaldnast leiðsögn fyrir baráttu kvenna hérlendis. Láglaunaráðstefnurnar voru skref í rétta átt, en þær eru ekki nóg. Kvennahreyfingin verður að byggja á grunni verkakvennafélaganna og sækja baráttukonur úr röðum verkalýðsstéttarinnar. Hún verðurað styðja við sérhverja baráttu íslenskra kvenna og leitast við að leiða hana inn á réttar brautir byltingarinnar. En er þá Rauðsokkahreyfingin borgaraleg og ónothæf Nei, hún er baráttuvettvangur fyrir konur, sem vilja berjast fyrir frelsun konunnar með sósíalismanum. Afturhaldsöm stjórn Rauðsokkanna og skipulagsleysi , má ekki hindra baráttukonur í að halda baráttunni áfram fyrir uppbyggingu sterkrar kommúniskrar kvennahreyfingar á Íslandi. Rauðsokkahreyfingin er vettvangur fyrir þessa baráttu, þess vegna þurfa íslenskar baráttukonur að starfa innan þeirra og berjast fyrir réttri stefnu og skipulagi.

# Leysum húsnæðisvandamál verkafólks!

frh. af forsíðu.

samning er "að sjálfsögðu" bannað að eftirprenta.

Verkefni verkalýðsfélaga

Baráttan gegn braskinu, okrinu og þvingunumun sem viðgangast í húsaleigubransanum er verðugt verkefni verkalýðsfélaga. Þau hafa það víðtæk áhrif, að þeim ætti ekki að verða skotaskuld úr því að vernda félaga sína gegn þessum mannréttindaskerðingum. En þess er ekki að vænta samkvæmt starfsháttum forystumanna félaganna. En á meðan verið er að gera verkalýðsfélögin að baráttutækjum ættu leigjendur að upplýsa ef þeir eru órétti beittir og birta nöfn svíðinganna, jafnvel þó það kosti harðindi. Einnig er nauðsynlegt og tími til kominn að undirbúa stofnun leigjendasamtaka. Í slíkum samtökum væri hægt að skipuleggja hvernig okur og húsasöluokur er ekki óumbreytanlegt náttúrufyrir- best væri að haga víðtækri baráttu fyrir frelsi þeirra sem eru það illa staddir að verða að leigja sér húsnæði.

Afleiðing kapítalismans

Húsnæðisvandræði, húsaleigubrigði, heldur afleiðing þess að auðmagnið hleðst á fárra manna hendur, það er eignarhald einstaklinga á framleiðslutækjunum sem er orsök þessara óréttinda, eins og annarra misbresta í þjóðfélaginu . Stéttskiptingin ræður ríkjum, þ.e þeir ríku leigja út íbúðir og búa í höllum sem hæglega gætu rúmað 2-3 fjölskyldur en hinir eru neyddir til að leigja sér húsnæði og oft ekki mannsæmandi eða strita hálfa ævina við að koma sér upp eigin húsnæði. Að endingu vill Stéttabaráttan minna á að til eru nóg híbýli fyrir íbúa landsins t.d. bankar, kirkjur, skrifstofur, og verslanir sem eru allt of margar með sömu vörurnar. Megninu af þessum byggingum mætti breyta í þægilegustu híbýli.

framhald af baksíðu

HAFNARVERKAMENN Í OSLÓ

lögreglunnar, gerðardóm og svik forystunnar höfum við neitað að láta undan, en í staðinn stappað í okkur stálinu.
2. Við sendum ríkisstjórninni beinhörð skilyrði, um að við myndum mæta með 2000 verkamenn við höfnina, ef lögregluofbeldinu yrði ekki hætt. Það dugði. Verkfallið hefur verið beinn þrýstingur og eyðilegging fyrir ríkisstjórnina á kosningar ári. Þetta sýnir einnig að verkalýðsstéttin hefur gífurlegt afl, þegar hún kreppir hnefann og slær í borðið.
3. Útgerðarkapitalistarnir hafa fundið beint fyrir verkfallinu í pyngjum sínum. Einstök útgerðafélög hafa augljóslega þrýst á NAF(Samband norskra atvinnurekenda) eftir að vörumagnið tók að hlaðast upp.

Skóli í baráttunni

Við höfum lært mikið í þessu verkfalli. Við munum aldrei gleyma verkfallsbrjórunum... Við höfum einnig komist að raun um hvoru megin við borðið forystan situr. Við höfum ekki mætt neinum stuðningi frá hlið. Við viljum nú helst ekki sjá þá niður við höfn. Hatrið á þeim mun vara í mörg ár. Hlutverk lögreglunnar er afhjúpað. Hún hefur notað ofstækisfullar aðferðir. Við höfum séð sambandið á milli lögreglunnar, útgerðarauðmagnsins og ríkisins. Verkfallið hefur afhjúpað stéttarafstöðu ríkisvaldsins...
En fyrst og fremst höfum við hafnarverkamenn gert okkur ljóst afl okkar og verkalýðsstéttarinnar. Við höfum gert okkur ljóst hvað samúð og stuðningur hefur mikið að segja. Stéttahatrið er tendrað. Þannig hefur verkfallið verið okkur skóli í baráttunni.
...... Við viljum nefna það að Klassekampen er einasta blaðið sem staðið hefur með okkur í baráttunni og verið okkur nærri þegar eitthvað var um að vera. Klassekampen hefur einnig verið með í að draga upp réttar baráttuaðferðir í verkfallinu og horft fram á við í þróun verkfallsins. Þetta hefur haft mikla þýðingu fyrir okkur.

Þýðing úr Klassekampen
1/3 '77 H. J.

FRAMHALD AF SÍÐU 1.
LÍFEYRISSJÓÐINA UNDIR STJÓRN VERKAFÓLKS

greiðslur inn í sjóðinn minnka um leið er óvenju hátt hlutfall félaga sem komast á eftirlaunaaldur fljótlega. Sjóðurinn getur ekki staðið við skuldbindingar sínar við konurnar nema hann fái stuðning annara sjóða. Því krefjast kommúnistar og allt verkafólk, þess að forystulið ASÍ tryggi þennan stuðning undanbragðalaust.

/félagi.

MINNING J. STALÍN LIFIR
frh. af forsíðu.

öld. En að sama skapi hataðist borgarastétt heimsins við þennan víðsýna og mikilhæfa leiðtoga heimsbyltingarinnar, Og þegar Stalín lést réðust endurskoðunarsinnarnir og borgaralegu öflin innan Sovétríkjanna að minningu hans, með óhróðri og lygum. En ekkert getur svert minningu J. Stalíns , skósmiðssonarins frá Georgíu, í augum hinnar stríðandi stéttar. Minningin um Stalín sem foringja kommúnísku heimshreyfingarinnar, lærisvein Leníns og leiðtoga Októberbyltingarinnar að honum látnum, mun lifa í hjörtum verkalýðsins og vinnandi alþýðu um alla veröld.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



STÉTTABARÁTTAN
8. tbl 6. árg. 8/3 1977.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l

STÉTTABARÁTTAN kemur út vikulega

Sími: 27810
Gíró 27810-6.

Ábyrgðarm.: Sigurður Ingi Andréson


# Landbúnaðarmál

*Þriðja grein!*

## Hví niðurgreiðslur?

Ein sú reginfirra, sem oft heyrist haldið fram, er sú að bændur græði svo og svo mikið á niðurgreiðslunum. Og einnig að útflutningsuppbætur á landbúnaðarafurðum séu forkastanlegar. Í stað þess. að framleiða dýrar landbúnaðarvörur ættum við að flytja inn ódýrar landbúnaðarvörur erlendis frá, — segja þessir sömu menn.

Lengi vel var Gylfi Þ., formaður þingflokks Alþýðuflokksins, helsti talsmaður þess að leggja niður íslenskan landbúnað og var hann þar á sama báti og heildsalaklíka sú sem á Vísi. Nú eru það Jónas Kristjánsson og Haukur Helgason, ritsjórar Dagblaðsins, sem eru óforskammaðastir allra í skrifum sínum um íslenskan landbúnað og íslenska bændastétt. Skyldu heildsalar þeir, er standa að DB, vilja græða á innflutningi landbúnaðarvara?

Nýjasta áróðurstegundin er sú að réttast og best sé að leggja landbúnaðinn niður að hálfu. Þetta á að gera með því að draga úr lánveitingum til framkvæmda, gera lánin óhagstæðari (auka verðtryggingu þeirra), seinka greiðslu á afurðaverði, svo sem vikið var að í síðasta blaði og ef til vill kreppa að bændum með þjóðnýtingu afrétta. Það er Alþýðuflokkurinn sem gengur fram fyrir skjöldu í þjóðnýtingarmálinu, líklega í tvennum tilgangi: að láta líta út fyrir að hann sé sósíalískur flokkur og í öðru lagi til þess að þjóna betur heildsalaauðvaldinu. En ástæða þess að afréttirnir hafa ekki verið þjóðnýttir enn þá er sennilega sú að hvorki Framsóknarflokkurinn né Sjálfstæðisflokkurinn hafa þorað að gera það af ótta við að bændur steinhætti að kjósa þá.

Alþýðuflokkurinn á hins vegar næstum engra slíkra hagsmuna að gæta því að bændum hefur flestum verið í nöp við hann lengi. Stéttabaráttan mun minnast eitthvað rækilegar á þjóðnýtingarmálið á næstunni.

Öll þessi ráð, sem rakin eru hér framar í greininni, heita "endurskipulagning". Þau miða að því ljóst og leynt að fækka bændum, einkum "lélegum" bændum. (lesist bændum sem skortir fjármagn). Í næstu grein verður fjallað lítillega um hvað bíður þeirra bænda sem geta ekki gerst landbúnaðaratvinnurekendur á grundvelli mikils fjármagns.

En hvað um allan áróðurinn um dýru íslensku landbúnaðarvörurnar og ódýru útlendu landbúnaðarvörurnar? Miðað við kaupgetu verkafólks á Íslandi eru íslenskar landbúnaðarvörur dýrar, það vita allir. En kaupgeta verkafólks er engin óbreytanleg stærð sem ákveðin var í eitt skipti fyrir öll við sköpun heimsins. Verkafólk berst sífellt fyrir bættum kjörum sínum og það er að vísitalan hækki eða fari yfir "rauðu strikin" svonefndu.

Niðurgreiðslur eru á hinn bóginn minnkaðar ef stjórnvöldum þykir henta, án minnsta tillits til hagsmuna neytenda. Þannig greiddar til þess að lækka verð þeirra. Niðurgreiðslur eru auknar ef komast þarf hjá því valda niðurgreiðslur ætíð óeðlilegum verðsveiflum, verðsveiflum sem eru ekki í samræmi við raunverulegan framleiðslukostnað varanna. Þessar verðsveiflur eru óhagkvæmar, bæði fyrir framleiðendur og neytendur.

Algengur misskilningur er að halda að bændur fái niðurgreiðekki nema sanngjarnt að verkafólk fái svo hátt kaup að það geti keypt landbúnaðarvörur fullu verði án niðurgreiðslu. Íslenskar landbúnaðarvörur eru góðar vörur og þær eru ekki dýrar sé miðað við hinn langa vinnudag íslenska bóndans.

Landbúnaðarvörur eru niðurslurnar greiddar út í hönd og talað er um að bændur kaupi mjólk frá mjólkurbúunum á lægra verði en þeir seldu hana þangað. Eins og er þá er niðurgreiðslan um það bil jafnvirði vinnslu-og dreifingarkostnaðar mjólkurinnar.

Af hverju útflutningsbætur? Í nágrannalöndum okkar veitir ríkisvaldið styrki út á rekstrarvörur landbúnaðarins og veitir bændum reksturslán. Ef íslenska ríkið gerði slíkt hið sama þyrfti ekki að greiða hinar minnstu útflutningsbætur.

Á annað atriði má minna. Ekki eru í öllum árum greiddar útflutningsbætur, því að stundum er kjötframleiðslan svo lítil að hún nægir varla landsmönnum.

Og þá eru niðurgreiðslur minnkaðar til þess að minna seljist og ekki þurfi að flytja inn og eyða gjaldeyri. Varla er það því neytendum hagstætt að of lítið sé framleitt af landbúnaðarvörur

Eitt að lokum: Útflutningsuppbætur hafa aldrei verið greiddar nema á kindakjöt. Það hefur verið stórgróði og geysimikil gjaldeyrisöflun með útflutningi ýmissa annarra landbúnaðarvara, svo sem osta, -gæra, - og ullarvarnings. En í falsáróðrinum gegn landbúnaðarmálunum er auðvitað ekki minnst á þetta nema þá ef einhverjum hagfræðingi tekst að reikna það út að hagkvæmt sé að hvert lamb hafi tvær gærur?

# Hafnarverkamenn í Osló unnu fullan sigur

Hafnarverkamenn fengu kröfum sínum fullnægt í öllum atriðum. Þrátt fyrir gerðadóm, skemmdarverkastarfsemi (þ.e. verkfallsbrot undir lögregluvernd) og svik forystu fagfélagsins (Norsk Transportarbeider forbund), sigruðu verkamennirnir. Þeir þjörmuðu að ríkisstjórninni; Annað hvort skyldi lögreglan flutt af bryggjunni, ellegar myndu verkamennirnir stilla upp með 2000 manna lið við höfnina.

Þessi sigur hefur ekki einungis þýðingu fyrir u.þ.b. 200 hafnarverkamenn við Oslóhöfn, heldur hefur verkfallið gífurlega þýðingu fyrir alla félagsbundna verkamenn og alla verkalýðsstéttina í Noregi. Aldrei, síðan eftir stríð hefur forysta fagfélags, auðvaldið og ríkið verið svo illa leikin. Það þýddi ekkert að koma með málamiðlunartillögur eða fá verkamennina til vinnu, með fögrum loforðum á fölskum forsendum,

Ástæðurnar til þess að verkfallið leiddi til frábærs sigurs verkamanna og algers taps fyrir forystu fagfélagsins og útgerðarauðmagnið, voru að sögn Jan Hagens og Auðuns Vangsnes meðal annars:

1. Við höfum ekki kvikað frá kröfunum. Þrátt fyrir ofbeldi

framhald á bls 3.

Lærum af reynslu stéttarbræðra okkar í Noregi og látum það ekki henda að verkalýðsforystan svíkist undan merkjum þegar í harðbakkann slær. Hið borgaralega hagkerfi neyðir verkalýðinn til verkfallsaðgerða og þá skerpist móthverfan milli hinna tveggja höfuðstétta. Kapítalistarnir hika ekki við að beita verkfærum sínum þ.e. lögregluliði og verkfallsbrjótum, sem með ofbeldi og ofríki vernda séreignarétt húsbænda sinna, Ísland er engin undantekning hvað varðar að hér ríkir stéttabarátta og því er mikilvægt að verkalýðsfélögin séu baráttutæki í höndum verkalýðsfjöldans og verkalýðsfjöldinn sé vel skipulagður í verkalýðsfélögunum. Forysta verkalýðshreyfingarinnar á Íslandi í dag á flest sameiginlegt með sósíaldemókrötunum sem sviku hafnarverkamennina í Noregi t.d. að leggjast gegn baráttu á grundvelli fjöldans, sem er þó söguleg staðreynd að er vænlegasta leiðin til árangurs.

ghb.

# Frá Samtökum Herstöðvaadstæðinga

Laugardaginn 12. mars næstkomandi kl. 13.00. verður haldin í báðum sölum Tjarnarbúðar ráðstefna, sem miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga gengst fyrir. Á ráðstefnunni verður fjallað um erlent fjármagn til uppbyggingar innlendra atvinnuvega, og nýtingu auðlinda í því sambandi.

Undanfarin ár hafa verið uppi meðal þjóðarinnar tvö megin sjónarmið varðandi uppbyggingu íslensks atvinnulífs. Þá hefur einkum verið deilt um hver ætti að vera hlutur erlends fjármagns í þessari uppbyggingu, og hvort veita ætti erlendu einokunarauðmagni frumkvæði í mótun stefnu á þessu sviði.

Miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga telur að stefnumótun í þessum málum geti orðið afdrifarík fyrir efnahagslegt og stjórnarfarslegt sjálfstæði þjóðarinnar, og hafi þannig áhrif á baráttumál samtakanna um herstöðvalaust land utan hernaðarbandalaga. Því vill miðnefnd hvetja alla landsmenn, til þess að leggja sitt af mörkum svo efla megi umræðu um ítök og áhrif erlends auðmagns í landinu og þá hættu sem sjálf. landsins stafar af því.

Skráning á ráðstefnuna fer fram í síma1 79 66. milli kl. 17.oo og 19.oo alla virka daga.

Þáttökugjald í ráðstefnunni verður kr. 500.oo

Miðnefnd.

# Fréttatilkynning frá landhelgissamtökunum

Það er álit Landhelgissamtakanna að nýgerður samningur ríkisstjórnarinnar við færeyinga um gagnkvæmar veiðiheimildir feli í sér ýmsar hættur. Þar á meðal þá að í kjölfar hans fylgi samkomulag við fleiri ríki og þá ekki síst aðildarríki Efnahagsbandalagsins.

Ef takast á að hindra enn frekara afsal auðlinda okkar er nauðsynlegt að allir þeir sem raunverulega vilja friðun og skynsamlega nýtingu fiskistofnanna við landið standi nú saman gegn öllum frekari samningum.

Landhelgissamtökin vilja benda á að í því efni þýðir ekki að treysta eingöngu á stuðning og baráttu einstakra þingflokka. Það sýndi sig þegar þingmenn allra flokka samþykktu samkomulagið við færeyinga á Alþingi þótt þeir gerðu það á mismunandi forsendum. Landhelgissamtökin vilja leggja sitt að mörkum í þeirri baráttu sem hefja verður og munu því standa fyrir undirskriftasöfnun gegn samningum við önnur ríki og gegn allri rányrkju innlendri sem erlendri.

Söfnunin mun fyrst og fremst fara fram í sjávarplássum á Suðurnesjum þar sem við teljum að undirtektir þar muni gefa góða vísbendingu um hug almennings í landinu til þessa máls. Söfnunin muni hefjastum næstu helgi og verður aðeins safnað í einn dag á hverjum stað.

Þeir sem hafa áhuga á að ljá þessu máli lið geta haft samband við Önnu Jónsdóttur í síma 73093 eftir vinnutíma á kvöldin.

fh. stjórnar Landhelgissamtakanna:
Páll Stefánsson.

# *Álverið:*

## Atvinnusjukdómar og mengun

Að undanförnu hefur álverksmiðjan í Straumsvík verið mjög til umræðu, hvað snertir mengunarvarnir og atvinnusjúkdóma á vinnustað. Fram að þessu hefur athygli manna og opinberra aðila einkum beinst að mosanum og lynginu kringum verksmiðjuna, en lítið hirt um heilsu og líkamsástand þeirra, sem í verksmiðjunni vinna. Samkvæmt rannsóknum, sem gerðar hafa verið á gróðrinum umhverfis verksmiðjuna, hefur komið í ljós, að mengun er í hámarki (hvað svo sem miðað er við í því sambandi) og því er okkur, sem vinnum í efnum. Síðan ekki söguna meir. Starfsmenn í kerskála eru orðnir langþreyttir á þessu ástandi, sem er orðið nær óþolandi. Æ fleiri hafa látið í ljós þá skoðun, að við þyrftum sjálfir að láta skítnum í verksmiðjunni spurn: Hvað með okkur? Hafa verið gerðar einhverjar rannsóknir á heilsufari okkar? Því miður er harla lítið um slíkt. Læknisskoðun er mjög ábótavant.

Trúnaðarlæknir fyrirtækisins er eini læknirinn sem framkvæmir einhverjar athuganir á heilsufari manna og það gerir hann í hjáverkum. Læknisskoðun fer alltof sjaldan fram; fyrsta læknisskoðunin er gerð, þegar viðkomandi hefur störf hjá ÍSAL, síðan eftir 6. mánuði og svo á 1 árs fresti.

Mengunarvarnir fyrirtækisins syndarmennska ein.

Að undanförnu hefur. þetta viðhorf til mengunar í álverinu breyst þannig, að farið er að gefa æ meiri gaum að heilsu starfsmannanna sjálfra. Lengi hafa átt sér stað viðræður milli hérlendra valdhafa og einokunarauðherranna í Sviss, um uppsetningu hreinsibúnaðar í verksmiðjunni. Fulltrúar fyrirtækisins hafa að sjálfsögðu lofað öllu fögru eins og þeirra er von og vísa, en efndirnar hafa reynst sýndarmennska ein. Það þekkjum við best sjálfir, sem vinnum í verksmiðjunni. Fyrir nokkrum mánuðum voru fáein ker útbúin þannig, að lok voru sett yfir þau til að koma í veg fyrir uppgufun á gasi úr þeim og öðrum eiturheyra í okkur á opinberum vettvangi í þessum efnum. Þetta hefur nú verið gert og má telja útvarpsviðtal, sem haft var við nokkra starfsmenn álversins í janúar og viðtal við 2 verkamenn sem birtist í Dagblaðinu 3. mars fyrstu skrefin í þessa átt.

Því hefur oft verið borið við af hálfu fyrirtækisins, að uppsetning hreinsitækja væri of kostnaðarsöm og fyrirferðamikil. Þetta er ekki annað en léleg afsökun, því það sem þessir auðherrar eru fyrst og fremst að spá í, er hve mikinn gróða er hægt að fá með vinnu verkamannanna.

Nokkrir trúnaðarmenn í Straumsvík sem fóru kynnisferð til Noregs á s.l. ári hafa þá sögu að segja, að töluverður munur sé á álverum norðmanna sjálfra annars vegar, og systurfyrirtækjum í Ísal hins vegar, hvað snertir mengunarvarnir og öryggisútbúnað. Kostnaður við uppsetningu hreinsitækja yrði því ekki nema brot af þeim milljarða gróða er Alu-Swiss fær í sínar hendur. Krafa okkar verkamanna í Straumsvík hlýtur því að vera sú, að hreinsitæki verði tafarlaust sett upp í álverinu, áður en æ fleiri starfsmenn bíða tjón á heilsu sinni.

Í næsta blaði er ætlunin að fjalla ítarlegar um þetta og verður þá m.a. tekin til meðferðar skýrsla Heilbrigðiseftirlitsins um þessi mál, en Matthías ráðherra Bjarnarson vitnaði í hana í ræðu sinni á alþingi þann 1. mars s.l.

/SJÓ